# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. ÁRG. WINNIPEG, OKTÓBER 1901. NR. 8.

## Menntun.

Eftir séra FRIDRIK J. BERGMANN.

Orðið menntun er eitt af þungu orðunum í máli voru. Vér látum það oft líða yfir varir vorar, en vitum ekki, hvað vér segjum. Vér álítum, að menntun sé í því fólgin að ganga á skóla. Það er að vissu leyti rétt, en að öðru leyti ekki. Það er hægðarleikr að ganga á skóla og verða heil-mikið fróðari maðr en áðr, en það er ekki jafn-mikill hægðarleikr að hafa um leið aflað sér hinnar sönnu menntunar. Fróðleikr og menntun er sitt hvað. Enginn verðr menntaðr maðr með því að tína upp svo og svo marga fróðleiksmola, þó það sé gott út af fyrir sig. Menntunin ætti ávallt að vera árangr skólagöngunnar. Tilsögnin, kennslan, fræðslan ætti að miða að því að veita þeim öllum sanna menntun, er tileinka sér þekkinguna og fræðsluna. Oft nær hún ekki þessu göfuga markmiði. Það er þá ýmist henni að kenna sjálfri eða þeim, sem eiga að færa sér hana í nyt.

Hvað er þá sönn menntun? Í hverju er hún fólgin?

Á ensku máli er menntun nefnd *education*. Það orð er af latneskum uppruna og þýðir að draga út, leiða fram. Hugsanin er þá sú, að menntunin eigi að draga út eða leiða fram hina huldu, ónotuðu, hálf-sofandi hæfileika mannsins og kenna honum að beita þeim göfuglega og vel samkvæmt gjaf-

arans góða tilgangi. A dönsku er sama hugmyndin nefnd *opdragelse*. Það orð þýðir að draga upp, lyfta þeim á œðra stig, er lágt stendr áðr, gjöra hann að meira manni, setja eitthvað undir fœtr hans, svo sjóndeildarhringrinn verði margfalt stœrri. Á þýzku er talað um *erziehung*. Sagnorðin, sem öll þessi orð eru mynduð af, þýða að draga, þýzka sögnin eiginlega að draga vel, taka í af öllu afli, beita allri orku. Getr það átt vel við bæði um þann, er menntunina veitir, og hinn, er langar til að eignast hana. Báðir verða að taka á af öllu afli, kappkosta að verða samtaka. Hugsun sú, er liggr til grundvallar á öllum þessum málum, er sú, að gjöra manninn að meira manni, rœkta jarðveg andans sem bezt er unnt, svo gáfurnar og hœfileikarnir nái þeim þroska, er bezt má verða.

Íslenzka orðið menntun táknar þá líka einmitt þetta. Það bendir á mann, sem er á leiðinni til að verða að manni. Það felr í sér endalaust áframhald, ferðalag upp fjallshlíð, sem aldrei tekr enda, en þar sem ferðamaðrinn sjálfr er sífellt að vaxa, eftir því sem hann kemr ofar.

Menntunin er því ekki í því fólgin að bœta við sig svo og svo miklum fróðleik. Sumir menn eru eins og einskonar alfrœðis-orðabók. Þeir hafa ætíð svör á reiðum höndum á öllum svæðum þekkingarinnar. En þeir eru ekki ávallt bezt menntuðu mennirnir. Þeir geta verið eins og drengir, er tínt hafa vasa sína fulla af steinum, en kunna ekkert að hœfa; eða eins og lyfsali, sem á lyfjabúð með ótal skápum og hólfum og ágætum lyfjum í þeim öllum, en kann ekki að setja þau saman, svo þau verði nokkrum til lífs.

Vér Íslendingar hugsum oft um menntunina að eins sem skilyrði fyrir að fá að verða embættismaðr. Hún er nú einu sinni heimtuð af þeim. Hugsi einhver sér að *verða eitthvað*, þá er svo sem sjálfsagt að reyna að menntast til þess að geta orðið það. Fyrst og fremst ætti þó hver maðr að láta sig mest af öllu langa að verða að manni; allir þurfa þess jafnt, bóndinn ekki síðr en hinn œðsti embættismaðr. Þegar for eldrarnir eru að ala börnin sín upp, ætti þau að hugsa um að gjöra sem mest úr þeim að þau eiga kost á. Ekki að tylla þeim endilega upp í œðstu stöðurnar í lífinu; það er minnst

um það vert. En að láta úr þeim verða eins góðan og fullkominn mann eða konu og kostr er á.

Hver maðr þarf um fram allt að læra *að hugsa.* Að sönnu vaknar hugsunin sjálfkrafa hjá öllum að nokkru leyti. En það er ekki allt skynsamlegar hugsanir, eða hugsanir, er nokkurt gildi hafa. Margar þeirra eru fánýtar, heimskulegar, öfugar, oft og tíðum af því menn kunna ekki að beita hugsun sinni, hafa ekki lag á að draga réttar ályktanir, eða greina rétt frá röngu. Hugsunin vaknar heldr ekki nema til hálfs nema með því móti að hún sé vakin. Hví hefir menntaðr maðr fleiri hugsanir yfir að ráða en ómenntaðr? Af því hugsun hans, sem sjálfkrafa hafði verið vöknuð að nokkru leyti, var leidd áfram og henni hrundið inn á nýjar brautir á leið menntunarinnar. Hver maðr þarf að læra að aga hugsun sína. Annars er hún eins og óstýrilátt barn, sem hleypr út um allar villigötur og getr farið sér að voða.

Á skólunum læra menn þá þetta fyrst og fremst, að beita hugsun sinni rétt. Flest af því, sem menn læra á skólunum, verðr manni að mjög litlum beinum notum í lífinu. Menn læra þar mörg tungumál og gleyma þeim ef til vill öllum nema einu eða tveimr. Menn læra þar ósköp af málfræðislegum reglum, sem horfnar eru úr huga manns um leið og maðr kemr út í lífið. Menn læra þar ósköp af talnafræði, sem ekki einn af hundraði hefir nokkur not af í lífinu. Til hvers er nú verið að þessu? Er þetta að eins alvörulaus leikr með tímann og féð, sem til þsss er eytt og hvorttveggja er dýrmætt? Nei, menn læra þetta allt og hafa alla þessa miklu fyrirhöfn ekki eiginlega til að kunna þetta, heldr til þess að læra þá vandasömu list, að hugsa rétt og gjöra skynsamlegar ályktanir. Vitið er dýrmætr gimsteinn, er oss hefir gefinn verið. En það þarf að fága hann og slípa. Hugsið um allt óvitið, sem til er í heiminum, — allar hinar öfugu og óvitrlegu hugsanir, er hvervetna gjöra vart við sig og standa mönnum svo háskalega fyrir þrifum. Ein hin stœrsta hætta, sem yfir lífi vor allra vofir, er sú, að verða flœktir í einhverri óvitrlegri hugsun, er breytt getr allri stefnu lífs vors og leitt oss andlega inn á herfilegustu villugötur. Er þá eigi allt

til þess vinnanda að aga hugsun sína svo, að henni verði ekki eins hætt við þessu, — að hún fái betr greint réttinn frá rangindunum, vitið frá heimskunni, sannleikann frá lyginni? Er ekki til þess vinnanda að afla sér dálítillar menntunar, ef hún fær að því stutt, að þetta megi lánast?

Þá er *stefna* mannsins í lífinu. Það stendr ekki alveg á sama, hver hún verðr. Líf allra manna er undir henni komið. Sé hún öfug, þá er maðrinn öfugr og allt starf hans og strit öfugt. En þeim manni, er rétta stefnu hefir í aðalatriðunum, — honum verðr mikið fyrirgefið. Góðum mönnum þykir ávallt vænt um hann, af því hann ljær góðu málefni ávallt fylgi sitt. Hann lendir ekki með líf sitt út í ófœrur. Hann vandar ráð sitt og fylgir því, sem rétt er og satt, eins vel og hann hefir vit á. Hann hvarflar ekki frá einu til annars. Vill ekki eitt í dag og annað á morgun. Hefir ekki þessa skoðun, þegar hann er að tala við þennan, og allt aðra skoðun, þegar hann er að tala við einhvern annan. Hann er ekki allr á víð og dreif. Skelfing hringla mennirnir fram og aftr, og fara alveg með líf sitt á þeim hringlanda.

Vér Íslendingar eigum mikið af góðum gáfum. Vér erum fljótir að skilja og fljótir að nema. Það hefir líka ávallt verið fjöldi af námfúsum unglingum á meðal vor, hvort sem það er nú eða ekki. En það verðr oft svo lítið úr vorum andans auð. Vér þekkjum allir marga stór-gáfaða menn af þjóð vorri, er leika sér fram og aftr með hugsanir og hugmyndir, sem oft eru bæði háleitar, göfugar og fagrar. En svo sitr við leikinn. Alvöruna vantar. Þessar hugsanir hafa engin áhrif á líf og lífsstefnu þessara manna. Það er oftast ekki unnt að sjá neina meginreglu fyrir orðum þeirra og athöfnum. Hina siðferðislegu þungamiðju vantar, — viljann, er stöðugt heldr í sömu áttina og smáryðr sér braut að takmarkinu. Stefnulaust líf er ónýtt líf, — stefnulaus maðr, hve gáfaðr sem hann er, gagnslaus maðr sjálfum sér og öðrum.

En aðal-þýðing menntunarinnar er sú, að koma í veg fyrir að lífið verði stefnulaust. Sönn menntun leitast af alefli við að gjöra manninn svo upplýstan, að hann viti, hvað hann vill. Að hann vilji ekki eitt í dag og annað á morgun. Að

hann vilji það eitt, sem vit og farsæld er í. Hún leitast líka við að gjöra manninn svo einbeittan, að hann fylgi vilja sínum fram með einurð og atorku og láti ekki heimskuna né hégómann glepja sjónir fyrir sér. Hún dregr hœfileika mannsins saman og safnar þeim á einn brennipunkt. Þeir hætta þá að vera allir á dreifing hingað og þangað eins og alvörulausir drengir að fánýtum leik.

Þess vegna þurfum vér svo bráð-nauðsynlega á menntun að halda, til þess lífið vort ekki lendi í stefnulausu flakki fram og aftr bæði andlega og líkamlega. Það þarf að brýna vilja íslenzkra unglinga, svo þeir fái notið hinna góðu hœfileika, er þeir hafa þegið. Það þarf að sýna þeim fram á, hvernig ógæfan eltir stefnuleysið og hringlandann á hælum.

Stefnulaus maðr, sem ekki veit, hvað hann vill, er líka ávallt *skoðana*laus maðr. Honum er eiginlega sama um allt; hann álítr, að hér um bil allt geti svona nokkurn veginn verið jafn-gott. Hann fylgir ekki neinu fram. Til þess þykir honum ekki nógu vænt um neitt. Hann gjörir oft gys að því, er öðrum er mest áhugamál. Hann rífr það oftast nær niðr, er aðrir vilja framkvæma. Einhverju sinni kann hann að verða heitr fyrir einhverju, og hamast þá í bili. En það er þá oftast nær einhver fánýt, óframkvæmanleg hugmynd. Enda er hann óðar hættr, því endingin er engin. Það er mikið til af þessu meðal vor Íslendinga. Vér verðum þess dagsdaglega varir. Það lamar þjóðlíf vort og varpar einhverjum vonleysis-blæ yfir framfarabaráttu vora alla.

Íslenzku ungmenni! Langar yðr inn í hóp hinna skoðanalausu manna? Er hann ekki nógu stór áðr? Hví er hann svo voveiflega stór? Af því menntunarleysið er svo mikið. Því sönn menntun er meðal annars í því fólgin að koma auga á eitthvert andlegt mál, sem maðr elskar af öllu hjarta. Utan um það mál myndast sannfœring manns, — traust og haldgóð eftir því, hve mikið maðr elskar málefnið. Unglingr, sem ekkert elskar, fær aldrei neina sannfœring. Um að gjöra, að opna augu hans og sýna honum eitthvað, sem er svo gott og göfugt, að það veki kærleikann, er sefr eins og barn á beði í brjósti hans. Það er til annar kærleikr en sá, sem

bundinn er við þennan líkamlega heim. Það er til sá kærleikr, er seilist inn í andans heim. Að opna augun, svo þau fái séð þangað, og láta hitann þaðan leggja inn að hjörtunum, — það er hlutverk menntunarinnar. Viljið þér ekki öll eignast eitthvað til að elska, — eitthvað, sem væri svo gott og göfugt, að þér gætuð hugsað um það alla æfi og varið öllum kröftum yðar til að hlúa að því og friða um það?

Þér vitið öll, hve mikil mannleg viðkvæmni er. Mannssálin er eins og rafmagnsvél. Ef maðr hróflar við henni, hrjóta neistar; það leiftrar fyrir augum vorum. Tilfinningar vorar ráða athöfnum vorum ekki síðr en vitið og skynsemin. Þær eru svo sterkar, að þær spyrna oft af sér öllum böndum og gjörast einvaldar. Fer þá vanalega ekki vel. Það er eins og þegar villimaðr brýzt til valda hjá þjóð, þar sem siðmenningin stóð í blóma. Í innstu afkimum eðlis vors sitr eitthvað með glóandi augu í myrkrinu, sem vér höfum beig í oss við. Það eru ástríður vorar. Þær geta stokkið fram úr myrkrinu, þegar vér sízt eigum von á. Þær geta lagt í eyði hið fegrsta og göfugasta lífsstarf, — lagt það í svartar, rjúkandi rústir. Þessi hætta vofir yfir lífi allra manna. Hvernig verðr henni afstýrt?

Einungis með því að kenna hinu villta og óstýriláta mannshjarta að slá upp að hjarta drottins. Trúin á hann er hið eina, er temr hið villta í manneðlinu. Hin sanna menntun leiðir manninn því fram fyrir hann og inn í samfélagið við hann. Það er hið háleitasta hlutverk hennar. Takist henni það ekki, verðr öll fyrirhöfn hennar að eins hálfverk, sem ekki nær tilgangi sínum. Maðrinn verðr ekki að manni nema sem kristinn maðr. Hugmyndin menntun er í órjúfanlegu bandalagi við kristindóminn. Enginn er menntaðr maðr, í orðsins eiginlega skilningi, nema sá, sem um leið er herra yfir sjálfum sér. En enginn er herra yfir sjálfum sér, svo hann sé óhultr, nema annar æðri hafi vald yfir honum. Hinn almáttugi kærleikskraftr af hæðum þarf að hafa náð traustum tökum á tilfinningalífi voru áðr en vér eigum það skilið að kallast menntaðir menn.

Þegar eg hugsa um menntaðan mann, hugsa eg fyrst og

fremst um góðan og göfugan mann, með trausta og einlæga lund, sem ætíð er óhætt að treysta. Eg hugsa þá líka um mann, er agað hefir hugsun sína og kann að beita henni rétt; hann talar skipulega og sannfœrandi og er fœr um að leiðbeina öðrum. Eg hugsa um stefnufastan mann, er fylgir föstum meginreglum í lífi sínu, keppir stöðugt að einhverju ákveðnu miði til heilla fyrir það mannfélag, er hann býr í. Eg hugsa um vitran mann, sem stöðugt er að reyna að greiða úr þeirri hugsanaflœkju og stýra rétta leið gegn um það öfugstreymi hugsananna, er hann ávallt verðr var við kringum sig. Eg hugsa að lokum um trúaðan mann, sem elskar af hjarta allt gott og göfugt og hefir brennanda áhuga á að ljá sig allan í þjónustu þess, ef verða mætti, að sá kraftr, er honum hefir léðr verið, gæti orðið til þess að framkvæma vilja hans, er mannkynssögunni stýrir.

---

## Sigrbjörn Ástvaldr Gíslason,

guðfrœðis-kandídat, sem ritað hefir greinina um „*kritíkina* í Danmörk" í þessu blaði „Sam.", útskrifaðist frá prestaskólanum í Reykjavík í fyrra og hefir þetta síðasta ár dvalið erlendis, lengst af á Jótlandi (hjá presti einum, Bjarnesen að nafni, af íslenzkum ættum, í Gudum nálægt Lemvig) til þess að kynnast kirkjulífi Dana og Norðrlandabúa yfir höfuð. „Verði ljós!" hefir flutt nokkrar greinir frá honum þaðan. Í sumar ferðaðist hann fyrst til Norvegs og var þar allan Júlímánuð. Í Kaupmannahöfn var hann á afar fjölmennum heimatrúboðsfundi snemma í Ágúst. Alls tóku um 1,300 manns þátt í því fundarhaldi, þar af 300 frá Norvegi, 100 frá Svíþjóð og 7 eða 8 frá Finnlandi. Undir eins eftir þann fund fór hann til Svíþjóðar á hinn sjötta „skandínaviska stúdentafund með kristilegu prógrammi", er haldinn var í Leckö-höll við stöðuvatnið Væni. Og voru þar saman komnir 425 „stúdentar" (yngri og eldri menntamenn) af öllum Norðrlöndum. Um lok Ágústmánaðar var hann að búa sig til Íslands. Þangað fór hann til þess búinn að vinna þar að kristilegri trúarvakning. Og hefir félag hinnar svo nefndu

„innri missíónar" í Danmörk veitt honum til þess verks nokkurn fjárstyrk. Óska víst allir kristilega hugsandi Íslending, að fyrirtœki það megi blessast.

Hr. Sigrbjörn er ungr maðr, með brennanda áhuga fyrir málefni kristindómsins og velferð íslenzku kirkjunnar, og að öðru leyti mjög vel gefinn.

Eins og grein hans, sem birtist nú í „Sam." og fer hér á eftir, ber með sér, sendum vér honum í sumar fyrirspurn um það, hvernig almennt væri litið á gamla testamentis „kritíkina" meðal kirkjumanna í Danmörk. Fannst oss enginn líklegri en hann til að geta frœtt oss og lesendr blaðs þessa vel og áreiðanlega um það efni, þar sem hann hefir einmitt dvalið í Danmörk í þeim tilgangi að kynna sér trúarlífið og kristindómsmálin þar til hlítar. Sennilega verðr sú skoðan á „kritíkinni" ofan á í kirkjunni á Íslandi, sem helzt ræðr meðal Dana.

Annars má geta þess, að á fundi heimatrúboðsmanna í Kaupmannahöfn, þeim er þegar hefir verið minnzt á, var félag eitt stofnað, sem hafa skyldi það hlutverk að afla mönnum þekkingar á biblíu-„kritíkinni" nýju og beita gegn henni bæði sókn og vörn. Í stjórn þess félags eru tveir menn úr hverju hinna skandínavisku landa. Félagið hefir í huga að styðja vel gefna unga menn, sem þykja því vaxnir að komið geti fram opinberlega í rœðu og riti gegn því, er „Verði ljós!" kallar „niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna". Og enn fremr ætlar félag þetta að gefa út ýms rit gegn „kritíkinni", bæði vísindaleg og alþýðleg.

---

## „Kritíkin" í Danmörk.

Þar sem þér, herra ritstjóri, hafið mælzt til þess, að eg skýrði frá, hvernig prestar hér í Danmörk líta á hina svo kölluðu „biblíukritík", mun eg með fám orðum leitast við að gjöra það, að svo miklu leyti sem mér er kunnugt.

Það ber vott um töluverðan ókunnugleika að staðhœfa, eins og sumir gjöra, að allir prestar hér í landi samsinni

biblíukritíkinni í þeirri mynd, sem hún er kennd á Hafnarháskólanum, að „missíónarprestunum" einum fráteknum.

Eg skal leyfa mér að nefna einstök dœmi.

Það mun óhætt að telja Askov-lýðháskóla og kjörsöfnuðinn þar meðal beztu stöðva stefnu þeirrar, sem kennd er við Grundtvig. Formaðr skólans, Ludvig Schröder, guðfrœðiskandídat, er algjörlega mótfallinn biblíukritíkinni; fer hann um hana ómildum orðum, þegar því er að skifta. Kjörprestrinn þar er henni sömuleiðis fjarstœðr. Séra Monrad, prestr við Marmarakirkjuna í K. höfn, einn af forvígismönnum Grundtvigs-stefnunnar, hefir þráfaldlega í blaði sínu „Dansk Kirketidende" flutt greinar gegn biblíukritík bæði eftir sjálfan sig og aðra. Mér er og kunnugt um, að ýmsir aðrir prestar hér í landi bæði meðal Grundtvigs-manna og þeirra, sem í engum ákveðnum flokki teljast, eru að miklu og öllu leyti fráhverfir kritíkinni við háskólann. Að því er heimatrúboðið snertir, er því ekki að neita, að einstaka prestr innan þeirrar stefnu aðhyllist kritíkina að miklu leyti; en þeir eru sárfáir. Allr þorri þeirra snýr algjörlega að henni bakinu.

Eg hefi ekki hitt neina trúaða leikmenn hér í landi, sem aðhyllast þessar kenningar prófessoranna um gamla testamentið. Þeir búast við, að svo muni fara um mestan hluta gamla testamentis kritíkarinnar sem áðr fór um Tybingenkritíkina á nýja testamentinu.

Biblíukritík sú, sem kennd er á háskólanum í Höfn, er að mestu leyti hin sama og kennd er við prestaskólann í Reykjavík, nema hvað meira er farið út í einstök atriði við háskólann, eins og við er að búast. Flest-allir eða allir guðfrœðisprófessorarnir í Höfn munu vera kritíkinni meðmæltir; og því var það, að ýmsir merkir prestar úr öllum höfuðstefnum dönsku þjóðkirkjunnar fóru þess á leit í vetr, að skipaðr væri nýr dócent í gamla testamentis skýring við háskólann, sem væri mótfallinn biblíukritíkinni. Sú málaleitun hefir þó ekki enn fengið neina áheyrn svo eg viti.

Skyldi einhver spyrja, hvernig því víki við, að biblíukritík sé kennd við háskólann danska og þó þegi allr þorri starfsömustu prestanna um hana eða sé henni opinberlega

mótfallinn, þá svara eg því með þeim orðum, sem einn trúaðr prestr grundtvigskr sagði við mig um daginn, er við áttum tal um þetta atriði. Hann sagði: ,,Satt er það, að flestir hafa komið með meiri eða minni kritík frá háskólanum nú upp á síðkastið, en hún hverfr tiltölulega fljótt hjá flestum þeirra, er þeir fara að starfa í söfnuðunum. Þeim reynist svo, að almenningr þarf frekar á öðru að halda en getgátum prófessoranna.''

Að lokum vil eg geta um það, sem sœnskr prestr sagði við mig, er við höfðum hlustað á prófessor frá Uppsölum flytja fyrirlestr um biblíukritík á stúdentafundinum í Leckö-höll, er haldinn var um miðbik þessa mánaðar. Prófessorinn hafði lýst efasemdum sínum, ekki að eins um gamla testamentið, heldr og um kennimannlegu bréfin og 2. bréf Pétrs. Eg spurði þennan sœnska prest, hvort trúað fólk í Svíþjóð hefði almennt slíkar skoðanir á ritningunni, og svaraði hann því svo: ,,Nei, því fer fjarri. Prófessorarnir eru sannarlega ekki öfundsverðir af efasemdum sínum og getgátum, er standa í dag og falla á morgun. Oss hinum nœgir að trúa guðs orði og reyna að lifa eftir því.''

Staddr á Gudum-prestssetri 30. Ágúst 1901.

SIGRBJÖRN Á. GÍSLASON.

---

## Nokkrar menntamála-bendingar.

Eftir séra JÓN J. CLEMENS.

---

Kristilega siðfrœðin er eðlilega í samrœmi við kristilegu trúfrœðina. Siðferðið fer eftir trúnni. Sé einhver t. d. trúlaus, trúi hann ekki á réttlátan og gœzkuríkan guð, trúi hann ekki, að líf sé til eftir dauðann, þá verðr hann kærulaus um sín sáluhjálpar-efni og lifir að eins fyrir þennan heim, án þess að taka neitt tillit til annars lífs eða dómsins. Siðferðið fer eftir trúnni. Til þess að geta lifað kristilega verðr maðr ekki að eins að játa kristna trú, heldr verðr trúin að búa í hjartanu.

Vér tölum um eilíft líf. En það er eitt að tala um það og annað að trúa því, að það sé til. Eg held þó, að innst í hjarta sínu hafi hver maðr að minnsta kosti þá von, ef ekki

trú, að eilíft líf sé til. Fáir eru þeir, sem ekki fegnir vildi vita, hvernig þeir eiga að lifa hér á jörðu til þess að þeir geti orðið sælir annars heims og að eilífu. Ekki trúi eg öðru en að allir myndi vilja lifa hér í heimi svo, að þeir verði eilíflega sælir, væri þeir vissir um, að þeir þekkti hina réttu aðferð, — væri þeir sannfœrðir um, að trú þeirra sé áreiðanleg, og kœmi trúarkröfurnar ekki of mikið í bága við kröfurnar, sem holdið gjörir, og veraldlega hagsmuni þeirra.

Vér, kristnir menn, trúum, að til sé að eins einn vegr til sáluhjálpar. En vér komumst ekki á þann eina veg nema því að eins að vér séum einlægir. Margir breyta gegn betri vitund. En skilningr þeirra á því, sem þeir læra, er talsvert misjafn. Þótt vér kunnum boðorðin utan bókar, þá er engan veginn sagt, að vér skiljum þau og hjartað sé búið að læra þýðing þeirra.

Margir leggja mikla áherzlu á þekkinguna. Þá menn þekki eg, sem allt vilja læra og vita. Og sannarlega er lærdómsfýsnin ekki vítaverð. Lærdómrinn er nytsamlegr. En það ættum vér þó ætíð að hafa hugfast, að hann er ekki eða ætti ekki að vera takmark. Hann er að eins meðal, sem vér notum til þess að ná settu takmarki. Margir virðast gjöra lærdóminn að takmarki. Þeir læra til þess að komast í lærðra manna tölu, svo upp sé til þeirra litið og virðing borin fyrir þeim. Þegar þeir þykjast vera orðnir ,,lærðir", finnst þeim þeir vera orðnir of miklir til þess að gegna hinum lítilfjörlegustu störfum lífsins, upp úr því vaxnir að geta borið virðing fyrir þeim, sem ekki hafa átt þess kost að ,,menntast". En þesskonar uppskafningar eru ekki lærðir eða menntaðir, enda þótt þeir kunni að hafa ,,gengið í skóla." Tilgangr sannrar menntunar er að gjöra manninn betri og fœrari til að gegna skyldum þeim, sem á honum hvíla í þeirri stöðu, sem hann er kallaðr til. Sönn menntan gjörir manninn auðmjúkan og lítillátan, sökum þess að því meira sem maðrinn lærir, því menntaðri sem hann verðr, því meira finnr hann til þess, hvað hann er fáfróðr og vanmáttugr.

Á þessari þekking finnst mér mikill skortr vor á meðal. Til þess að geta lært það, sem mest á ríðr, að þekkja veginn

til eilífs lífs, verðum vér fyrst að læra það, að vér erum sjálfir þekkingar-snauðir og að þekking vor nœgir ekki til þess að afla oss þeirrar menntunar, sem gjörir menn að spekingum í guðs ríki.

Í þessu sambandi kemr mér til hugar mál, sem eg hefi oft hugsað um. Eg hefi þegar sagt, að mikill skortr sé á þessari þekking mannsins á sinni eigin fáfrœði. Ekki hvað sízt finnst mér þetta vera svo hjá oss Íslendingum. Veraldlega menntanin er þar víst all-oft gjörð að aðal-endimarki lífsins. Menntamaðrinn og gáfumaðrinn er hafðr í hávegum. En sjaldan er eins mikið tillit tekið til þess, hvort hann er góðr, eins og hins, hve vel að sér og gáfaðr hann er. Allr þorri fólks vors virðist hafa meiri mætr á því, sem lýtr að gáfum, skilningi, vitsmunum, heldr en mannkostum. Hugvitsmaðrinn, sagnfrœðingrinn, skáldið, mælskumaðrinn eru hátt upp hafnir, og lofrœðurnar um þá eru á hvers manns tungu. Ekki segi eg, að þeir eigi það ekki skilið. Þeim heiðr, sem heiðr heyrir. En það gremst mér, er eg sé góða manninn, guðhrædda manninn, mannvininn, sem sér í lagi hefir gjört sér far um að mennta hjartað, einskisvirtan og fyrirlitinn.

Því stœrri sem sjóndeildarhringr mannsins er, því meira hefir hann að læra, því fleira að sjá og hugsa um. Eitt af því, sem sannr kristindómr gjörir fyrir þann einstakling og þá þjóð, sem veitir honum viðnám í hjarta sínu, er það að víkka út sjóndeildarhring hugans og hjartans. Hann lyftir einstaklingunum og þjóðunum upp á háan sjónarhól, þar sem sólstafir guðs kærleika sjást skínandi í allri sinni dýrð, og sýnir þeim þaðan öll undr himins og jarðar. Hann kennir þeim þar að þekkja kærleikann, skaparann, endrlausnarann, og kennir þeim að elska meðbrœðr sína.

Þetta er sönn þekking, — þekking, sem grundvölluð er í hjartanu, en ekki í höfðinu, — þekking, sem gjörir menn sæla um eilífar aldir. Þetta er sú eina þekking, sem aldrei líðr undir lok eða fellr í verði. Hún verðr ekki frá neinum tekin. Hún sprettr upp í hjartanu sem lifandi árstraumr til að svala þorsta mannsandans og til að vökva rœtr dyggðablómanna, sem kristindómrinn gróðrsetr þar.

Meira er undir því komið en margir hyggja, á hverskonar skóla unglingarnir fá menntan sína. Vér höfum tvennskonar skóla um að velja fyrir ungmenni þau, sem vilja leita sér æðri menntunar: ríkis-skólana og kirkju-skólana. Þeir skólar, sem engan trúarlegan grundvöll hafa, geta að eins veitt kennslu í veraldlegum fræðum. Veraldleg þekking er að vísu gagnleg, sé vel á haldið; en hún getr einnig verið skaðleg. Sé hún talin eina þekkingin, sem nauðsynlegt sé að afla sér, þá fer verr en skyldi. En hætt er við, að sú skoðan komist inn í ungmenni þau, sem eingöngu ganga í trúarbragðalausa skóla, því áhrifin utan að miða oftast nær í þá átt. Á þeim árunum, sem flestir verja til náms, œskuárunum, hneigist maðrinn oftast nær að þeirri stefnu, sem ræðr lífi hans þaðan í frá Öllum ætti því að vera ljóst, hve nauðsynlegt það er fyrir unglingana að stunda nám sitt í þeim skólum, sem beina hug þeirra og hjarta í rétta, kristilega átt. Þær æðri mennta-stofnanir, sem eru undir stjórn og áhrifum kristinna manna, hafa þann kost fram yfir ríkis-skólana, sem engan trúarlegan grundvöll hafa, að andrúmsloftið kristilega, sem nemendrnir draga að sér og lifa í, er heilnæmara fyrir þá en vantrúar-andinn, sem víða er ríkjandi í veraldlegu skólunum. Foreldrar unglinganna geta því verið öruggari um þá, í þessu tilliti að minnsta kosti, en í þeim skólum, þar sem sjaldan eða aldrei er minnzt á nafn guðs. Eg segi *aldrei* vegna þes eg hefi heyrt getið um skóla, sem tekr það beinlínis fram í grund-vallarlögum sínum, að þar skuli guð aldrei nefndr á nafn.

Að því skapi, sem einstaklingar og þjóðir vakna til með-vitundar um það, að menn eru ákvarðaðir til félagslegs sam-lífs, skapaðir til þess að lifa saman, heyra hver öðrum til, vinna að sameiginlegri velfarnan, bera hver annars byrði, batnar velmegan þeirra og farsæld. Þeir mannflokkar, sem fullir eru af þjóðernislegu drambi eða af öðrum ástœðum vilja sem minnst mök hafa við annað fólk, tapa meir en þeir grœða. Eg er því hjartanlega samþykkr, sem séra Helgi Hálfdanarson segir í Siðfrœði sinni: ,,Að gjöra eigin þjóð sína og þjóðerni að átrúnaðargoði er heiðing-leg stefna.'' Hver þjóð hefir sitt sérstaka hlutverk að vinna,

sem guð hefir ákveðið henni. Mannkynið er eins og afar stór verkvél. Hver þjóð er hjól í þeirri vél og einstaklingarnir tannir í hjólunum. Hvert hjól og hver tönn hefir sitt verk, og einn partrinn er upp á annan kominn. Enda þótt ein þjóð hafi einhverja yfirburði fram yfir aðra, þá ætti hún ekki að miklast af því. Hver siðuð þjóð hefir sína yfirburði.

Hafi menn komizt til meðvitundar um þetta og sé knúðir til starfsemi í guðs ríki af kærleika til guðs og náungans, þá eru þeir aðnjótandi sannrar þekkingar, og með fyllsta rétti má segja, að þar sé menntaðir menn.

## Nauðungar-yfirlýsing.

Sigurðr Júlíus Jóhannesson, sem inngöngu fékk á prestaskólann lúterska í Chicago í fyrra haust, en varð að bætta þar sökum þess að ekki fengust fullnægjandi vitnisburðir um fortíð hans á Íslandi, skýrir nú frá því á prenti, að eg hafi í vor, sem leið, veitt samþykki mitt til þess, að hann færi að prédika fyrir Íslendingum í Washington-ey í Wisconsin. Þó að það sé fjarri mér að vilja standa í neinni ritdeilu við hann út af öfgum hans og vaðli, og þó að þetta sé í rauninni smámunir í samanburði við margt annað, sem hann fer rangt með, neyðist eg þó til að lýsa opinberlega yfir því, að fyrir þessum sérstöku ummælum hans er ekki hinn minnsti flugufótr. Og í mesta bróðerni vildi eg nú mælast til, að hann leiðrétti þetta hið bráðasta og kannist við það án allra vafninga, að hann hafi hér farið með algjör ósannindi.

Winnipeg, 9. Október 1901.

Jón Bjarnason.

Séra Friðrik J. Bergmann á ekki til muna við kennslu á Wesley College fyrr en langt er liðið á þennan mánuð. Íslenzkir nemendr voru þar, svo sem við mátti búast, mjög fáir, þá er skólinn í mánaðarbyrjan var settr. Það varð því að ráði með skólanefndarmönnnum kirkjufélags vors og samþykkt af manni þeim, er veitir Wesley College forstöðu, að séra Friðrik skyldi að all-miklu leyti verja tíma sínum langt fram í þennan mánuð til þess að kynna fólki voru tækifæri það fyrir íslenzk ungmenni til að nema tungu vora og bókfræði, sem nú stendr þeim til boða við þessa menntastofnan, auk annarra almennra námsgreina, sem þar er veitt tilsögn í. Í því skyni hefir séra Friðrik þegar ferðazt til Argyle-byggðar hér í Manitoba. Og hefir hann von um, að sá árangr verði

af þeirri ferð hans, að þaðan komi dálítill hópr nemenda. Einnig ferðast hann suðr til Íslendinga-byggðarinnar í Minnesota, þar sem söfnuðir þeir eru, sem séra Björn B. Jónsson veitir þjónustu. Og má ætla, að sú ferð hafi einnig nokkurn árangr. — Vér vonum, að þeir verði ekki svo fáir af löndum vorum, sem nota menntunartœkifœri þetta hið nýja, þegar fram líða stundir og þeir hafa verulega áttað sig. Lakast er, að heilsa séra Friðriks er engan veginn vel sterk.

---

Séra Björn B. Jónsson, skrifari kirkjufélags vors, hefir í heilan mánuð (frá 3. Sept. til 3. Okt.) verið að heiman, á missíónarferð til Íslendinga á Kyrrahafsströndinni. Fór hann þar um all-víða, fast norðr að Canada-landamærum og í suðrátt til Portland í Oregon-ríki, prédikaði þrisvar og talaði auk þess eitt sinn á annan hátt til Íslendinga á fjölmennri samkomu í Ballard rétt út frá Seattle, Wash., þar sem einna flest íslenzkt fólk á aðsetr í þeim vestrbyggðum.

Í næsta blaði „Sameiningarinnar" búumst vér við að koma með ritgjörð frá séra Birni sjálfum um þessa langferð hans í þarfir kirkjufélagsins. En geta má þess nú þegar, að á vestrleiðinni brá hann sér til Yellowstone Park, hins mikla undralands í norðvestrhorninu á Wyoming-ríki, sem sökum hinnar óviðjafnanlegu náttúrudýrðar var gjört að allsherjar skemmtigarði Bandaríkjanna og friðað með lögum árið 1872. Líklega er séra Björn fyrsti Íslendingrinn, sem hefir orðið svo frægr að koma á þær stöðvar og sjá náttúru-undrin þar með eigin augum.

---

Séra N. Steingrímr Þorláksson þjónar nú söfnuðunum í Pembina og Grafton með söfnuði sínum heima hjá sér í Selkirk. Hafa hinir fyrrnefndu söfnuðir gjört við hann samning því viðvíkjanda.

---

Stud. theol. Gunnlaugr W. Jónsson veitti fólki í Þingvallanýlendu kirkjulega þjónustu frá því skömmu eftir kirkjuþing þangað til seint í Ágúst. Síðan prédikaði hann á ýmsum stöðum: í Fyrstu lút. kirkju í W.peg, í Selkirk (tvo sunnudaga) og í prestakalli séra Friðriks J. Bergmanns í Pembina Co., N.-D. Síðasta sunnudaginn í Septembermánuði prédikaði hann í kirkju Argyle-safnaða. Undir eins eftir það lagði hann á stað austr til prestaskólans í Philadelphia — með hlýrri þökk frá oss öllum fyrir framkomu sína vor á meðal í sumar. Óskanda og vonanda, að ástœður hans banni

honum ekki að ganga að prestskap hjá löndum hans hér vestra, þá er guðfræðisnámi hans á næsta vori er lokið.

Bókasafn kirkjufélagsins hefir fengið að gjöf þessar bækr: Vídalíns postillu, K.höfn 1827, og Sjöorðabók sama höf., Hólum 1753, frá hr. Sigbirni Hofteig; Aldamót, leikrit séra Matt. Jokkumssonar, W.peg 1901, frá hr. Ólafi S. þorgeirssyni; Ísland um aldamótin, eftir séra Friðrik J. Bergmann, frá höf.; Waysen-húss-biblíuna ísl., K.h. 1747, frá hr. Friðj. Friðrikssyni. — þökk fyrir gjafir þessar. Jón Bj.

Gjörðabók kirkjuþingsins á Gimli var, undir eins og prentan hennar var lokið, send til útsölu öllum þeim, sem á því þingi sátu. það var í þeirri von, að allir seldi allt, sem til þeirra fór. Engum voru send fleiri eintök af ritlingnum en líkur voru til að hann gæti selt. Einn þingmaðr (hr. George Peterson í Pembina) sendi um hæl borgunina fyrir öll eintökin, er hann var beðinn fyrir. það voru greið og góð skil, sem vert er að þakka og geta um öðrum til eftirbreytni. Hinir allir eru nú vinsamlega um það beðnir að láta ekki ritið liggja hjá sér óselt. þeir, sem kirkjuþingið fól að sjá um prentan þingtíðindanna, þurfa að fá andvirði allra eintakanna, sem send hafa verið út, fljótt og skilvíslega, til þess í tíma að geta borgað prentunarkostnaðinn.

Verð kirkjuþingstíðindanna er að eins 15 cent.

Saga kirkjufélagsins, sú er gjörðist á síðastliðnu ári, er öll í þeim ritlingi, og margt fleira, sem hverjum kirkjulega hugsanda Íslendingi hér er nauðsynlegt að vita. — Ritið er engan veginn tómt registr.



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. þorgeirsson, Björn B Jónsson og N. Steingrímr þorláksson.